# Samtal
## um endurfædínguna,
### ámillum tveggja vina.

Karl hóf máls, og sagdi: Eg gled mig ad sjá þig, gódi vin! og eg vona ad þér lídi vel! Henrik svaradi: Já, Gudi sé lof! mér lídur og rétt vel! Karl sagdi: eg uggdi þú værir annadhvort sjúkur, edur dáinn, af því eg saknadi þín á gledistödunum, hvar vid vorum vanir ad finnast; eda hvør fyrirtekt þín veldur því? Henrik svaradi: Eg hefi aldeilis frá mér stúfad mínum fyrri ánægjusemdum, þegar eg sannfærdist um, hvad fánýtar þær væru, og sá, hvílíkur háski af þeim búinn væri; og nú er mín ósk sú, ad géta notad mér minn tíma betur. Karl sv.: Ekki vænti eg þú ordinn sért einn af þeim frómu*). Henrik sv.: víst þekki eg nú dýrmæti Trúarbragdanna í skjærara ljósi enn ádur, og er alrádinn í, ad láta mér nú þad eina naudsýnliga vera, fyrir Guds nád, þad mest áríðandi af øllu, medan eg lifi, hér eptir. Karl sv.: Hvad meinar þú þá fyrir þad "eina naudsýnliga"? Vid køllum þad vera: ad græda góts og peninga. Henrik sv.: Ney, þetta er talsháttur heil. Ritníngar;

*) Þetta er hædnis nafn, sem heimsins børn géfa þeim sem gudhræddir eru.

og hún meinar þarmeð "uppheldi sálarinnar", í mótsetníngu ómátaligrar umsorgunar fyrir því jarðneska; og nú skammast eg min fyrir minn hégómaskap að undanförnu og hyrðuleysi í þeim efnum. Karl sv.: þú gjörir allt oflítið úr sjálfum þér, því þú hefur jafnan verið góður Christinn. Mér er kunnugt, að þú hefur opt farið til kyrkju, og líka geingið stundum til Guðs borðs. Um góðgjörðasemi þína er eg sjálfur vitni; og eg held, að einginn maður géti haft betra hjartalag, enn þú. Henrik sv.: að vísu hafði eg yfirskin guðhræðslunnar, en af hennar krapti vissi eg ekki að seigja. Nú er eg sannfærður orðinn um, að sönn trúrækni er allt annað, enn eg áður meinti. Karl sv.: Í hvorju heldur þú þá nú, að trúræknin salin sé? Henrik sv.: Í því, að hún hlýtur að byrjast með endurfæðingunni, eður þeirri nýu fæðingu, sem Guðs orð svo nefnir. Nú hristi Karl höfuðið, og sagði: minn kjæri vin! eg ángrast yfir þér, þú ert orðinn réttur svermari*). Eg er hræddur um heili þinn sé ruglaður. Henrik sv.: En ertú ekki ogsvo hræddur um hjartalag mitt? því umbreytíng hjartalagsins er eiginliga það sem meinast með orðinu: sú nýa fæðing. Karl sv.: æ Henrik minn! hættu nú þessari þinni mælgi; eg ræð þér það að yfirgéfa hóp þeirra hörmuligu hræsnara; snúðu þér aptur til þinnar fyrri og betri skynsamligu trúar, og til þeirra saklausu ánægjusemda lífs þessa! Henrik sv.: Lofaðú mér að spyrja þig að einni spurníngu: trúir þú Ritníngunni?

---

*) Þetta er annað spottnafn, sem sannchristnir fá, og þýðir það sama, sem að hafa skynsemdarlaus og offrek guðhræðslu-læti.

Karl sv.: því spurdú míg ad því? hefi eg nokkrusinni því neitad? Eg er þeirrar fullu meiníngar, ad Biblían sé hin besta sidalærdómsbók, sem til er í heiminum; þarfyrir held eg og fyrir mitt leiti mikid af ritníngunni. Henrik sv.: þad þykir mér gott ad heyra! Eg hafdi þó sjálfur mínar efasemdir móti henni, sem nokkrir minir lístugu stallbrædur höfdu hjá mér vakid, en nú er eg fullkomliga ordinn sannfærdur um, ad Biblían er Guds ord. Karl sv.: hvad var þad þá, sem þessa sannfæríngu hjá þér verkadi? Henrik sv.: fremst af öllu hefur mín eigin reynsla veitt mér þær röksemdir, er hafa sett mér fyrir sjónir, án alls efa, Ritníngarinnar guddómligleika; til dæmis: útmálan sú yfir mannsins hjartalag, sem Ritníngin géfur, í tilliti syndugra tilhneigínga til sansaligs eptirlætis, sem allar manneskjur af náttúrunni í sér hafa, og um þann henni innrætta fjandskap gégn þeirri sönnu og lifandi trúrækni, í samanburdi vid þad, sem eg sjálfur í mínu eigin hjarta fundid hefi; þarnæst medvitund um naudsýn fullkominnar hjartans umbreytíngar, til þess ad géta samstemmt ákvördunum heil. Ritníngar; þetta allt hefur ómótmælanliga sannsært mig um, ad höfundur Bibliunnar géti einginn annar verid, enn sá stóri Gud, sem hjörtu og nýru mannanna ransakar. Trú mín á Bibliunni þróast dagliga, í krapti þess sem eg sje og verd í mínum innra manni var vid; og þaradauki styrkist fullvissa mín þarum, af þeirri mótstridu, sem þeir gudlausu gégn henni í frammi hafa; í stuttu máli, eg er meir enn fullsannfærdur um naudsýn endurfædíngar þeirra, sem Ritníngin umtalar. Karl sv.: eg vildi víst fá glöggt ad vita, hvörjar

gildar ástæður þú hefur fyrir þessum staklíga lærdómi. Henrik sv.: já, eg hefi þær áreiðanligustu ástæður þar til, og sem þú, minn vin! munt vart géta í efa leidt, nær þú þær heyrir. Eg meina til þeirra, sem vor tilbeiðsluverðasti frelsari Jesús Christur sjálfur meðdeildi, þegar hann í tali sínu við Nicodemus, með hátíðligustu og ótvíræðustu orðum sagði: "að nema nokkur yrði að nýu fæddur, kynni hann ekki að sjá Guðs ríki". (Jóh. 3.) Karl sv.: eg minnist að eg einusinni heyrdt hafi prédikun út af texta þessum, hvorja eg ekki rétt vel skildi; en þegar eg eptir á heyrdi, að prestur sá hana flutti, væri nafnkunnur svermari, þá gjørði eg mér einga þánka um hana framar. Skømmu þar eptir kom eg, á manna mótum, í tal við einn mann, sem sagði mér, að endurfæðingin væri ekkert annað enn skýrnin; þessvegna lét eg skoða í kyrkjubókina, og varð fullkomliga til friðs, þegar eg fann mitt nafn í hana skrifað; svo eg er nú viss um þann dag og stað, þá eg, eptir registrinu í henni, varð endurfæddur. Henrik sv.: af því sem þessi maður sagði þér, hlyti það af sjálfu sér að fljóta, að allir skýrðir hlytu undireins í endurfæðingar standi að vera; og þarsem allir endurfæddir hafa rétt til himnaríkis, kynni það ekki bregðast, að fáir meðal vor væru í hættu staddir, fyrir eylífri fordæmingu. En þarsem það er þó þvert á móti fullvíst, að mikill partur þessarar þjóðar lifir í drottnandi syndum og vantrú, þó þeir skýrðir séu, þá flyti þaraf — þvert á móti því sem heil. Ritning seigir — að þessir allir væru þó í sáluhjálpligu ástandi. Karl sv.: Eg neita ekki, að þetta sýnist strída hvað øðru, og eg þori því ekki að

standa á því. Henrik sv.: já, það er í raun og veru mjøg hættuligur villudómur, að halda það, að nokkuð annað minna, enn sønn hjartalagsins umbreiting, útheimtist til þess að vera sann-endurfæddur; en flestir þeirra, sem í skýrnínni endurfæddust, hafa tapað náð endurfæðingarinnar aptur, þar þeir hafa vísvitandi rófið sinn skýrnar sáttmála. Og eg er viss um, að ef þú að eins hefðir þolinmæði til að heyra mig, munda eg fljótt géta þig þarum sannfærdt. Karl sv.: Trúarbragða þrætur eru mér að vísu mjøg ógéðfeldar, en af því það, sem þú stendur á, er alvarliga áríðandi, þá útkrefur það sérhlífnislausa aðgjætslu. En leifðu mér að afsaka mig frá að hlýða á það í þetta sinn, þar eg hefi lofað nokkrum góðum vinum mínum, að eg skuli í kvøld, ásamt þeim, sjá uppá eitt nýtt skoðunar leikspil, en nú er — eptir úrverki mínu — naumast hálf stund, þángað til það byrjar. Henrik sv.: eg vil ekki tefja fyrir þér einn fjórðúng stundar; en gjæti eg aðeins feingið af þér að skilja, hvørsu mikilvægt efni það er, sem við tølum um, og hvørsu nauðsýnlig sú sinnis-umbreiting sé, sem endurfæðing nefnist, þori eg að standa á því, að þú mundir aldrei framar hyrða um, að heimsækja skoðunar-spila staði. Karl sv.: Þú mátt ekki innbirla þér, að gjøra úr mér nýann trúmann, því þú veitst, að eg er ekki hjátrú háður; komdu því og gákktu með mér, og hættu þessari prédikun þinni! Henrik sv.: Forláttu mér, að eg hlýt að halda henni áfram; en ef þér leiðist að heyra til mín, þá hlýt eg að hætta. Karl sv.: Svo haldtú þá áfram, en vertú ekki mjøg margorður. Henrik sv.: Endurfæðingin er ein aðal-umbreyting í

sinni manns; og sú er víst meiníngin i þessu ordi. Þad þýdir einslags inngaungu í eitt nýtt líf; þessvegna verdur efni þetta, í ødrum stødum Ritníngarinnar nefndt: ad þreyngjast í gégnum frá myrkrunum til ljóssins (Matth. 26, 18. 1 Pet. 2, 9); frá daudanum til lífsins (Jóh. 5, 24); líka kallast þad ný skøpun (Eph. 4, 24. 2, 4—10). Sýnist þér þá ekki, ad ordatiltæki þessi hafi nokkud meira ad þýda, enn einúngis veika laungun, litla útvortis umbreytíngu, edur eintómis líflausa eptirmind gudhrædslunnar? — Karl sv.: Þad má vera ad svo sé, þegar talad er um Heidíngja edur Gydínga, sem til Kristindóms snúast vilja; en nú erum vér allir, sem alkunnugt er, kristnar manneskjur. Henrik sv.: Ad nafninu til, og útvortis játníngu, erum vér þad ad vísu; en nú hljótum vér ad taka þad til greina, ad hér er talad um einslags innvortis umbreytíngu, hvørrar einn nafnkristinn þarf allt eins vid, sem Tyrkinn. Þú veitst, ad í heil. Ritníngu er talad um þann, sem er innvortis og útvortis Gydingur (sjá Rómv. 2, 28), og þad sama kunna menn um einn Kristinn ad segja. Í tilliti trúarbragdanna, lítur Gud einúngis á hjartalagid. Þad stóra sáttmála fyrirheit hljódar þannig: "eg vil géfa ydur nýtt hjarta". Þessvegna nægir þér eingin útvortis umbreyting, eingin munnsins játníng edur lífernis betran, einskostar. Eg veit af minni eigin reynslu, ad madur gétur fordast marga lesti, og æft margvr dygdir, án þess ad hafa minsta grand af sannri irú í hjarta sínu. Karl sv.: Hvørnig gétur þad møguligt verid? Henrik sv.: Þad skal eg seigja þér. Umsorgun fyrir ad halda vid heilsu sinni,

edur gódu mannordi og fleiru, kann mjøg miklu til vegar ad koma, en þó prældóms-ótti fyrir helvíti, ennþá miklu meiru. Madur kann ad uppfylla jafnvel margar útvortis trúræknis skyldur — svo þúngt sem hønum þó í rauninni fellur þad — í þeirri von ad géta med því móti sneidt hjá helvítis kvølum, hvørjar hann — sem óbæriligar — óttast. Én leifdu mér ad bæta því hér vid: ad umbreytíng sú, um hvørja vid tølum, hún hlýtur ad vera fullkominn, sprottin meir af elsku til Guds, enn af ótta. Ymsir af Christnum — og þad þegar best gjørir — fá í sig ad vísu alvarligann eptirþánka, og taka fyrir sig, á vissum tímum, gódann ásetning, hvar med ad nokkru leiti audveldliga verkast kann einslags umbreytíng í hegdun þeirra; og med þessu móti hugsa þeir sér, ad géta dempad óróseмi samvitsku sinnar. Hjá ødrum er sú sýniliga útvortis betran afleidsla af aldri þeirra, heilsufari, edur ødru útvortis ástandi. Líka svo verda opt ýmsar trúræknis og sidferdis skyldar æfdar, til ad fridþægja fyrir lesti þá, sem menn vita sig ádur æft hafa. Karl sv.: Þad er ad vísu satt, ad svo kann opt til ad gánga; en þínar reglur eru þó svo strángar, ad þær eru mannligri náttúru ómøguligt upp ad fylla. Henrik sv.: Manneskjunni, sem manneskju, er þad ad vísu ómøguligt, en Gudi ekki; því umbreytíng sú, sem málstadurinn er um, er háleitari tegundar. Eg meina nefniliga: ad eingin manneskja kann af eigin kroptum ad koma henni til vegar, en hún gétur samt af eiginn krapti móti henni stadid. Þeir endurfæddu verda því, sem slíkir, kalladir: "Fæddir af Gudi, ad nýu fæddir, og af andanum fædd-

ir". (Jóh. 3, 3. 5. 7. 8. og svo frv.) Karl sv.: Hvert er augnamið þessarar svo mikilvægu umbreytingar? Henrik sv.: Það er það, að bæta þann skaða sem manneskjan af Adams falli liðið hefur, og til þess að byggja upp aptur Guðs mind í hennar sálu. Allt hvað skapað er, var Guði til dýrðar skapað; en sú náttúrliga manneskja skeytir þar ekki um. Með tali hjarta síns og sinnar hegðunar, seigir hún, eins og Davið (S. 12, 5) gjörir þeim orðinn upp: "mín túnga skal yfirhönd fá — hvør er vor Herra?" En sá sem endurfæddur er, gefur, þeim sem hann skapað hefur, makt til að stjórna sér, og seigir þessvegna í hjarta sínu: "Drottinn! hvað vilt þú að eg gjøra skuli?" (Gb. 9, 6). Sú manneskja, sem einúngis stjórnast af náttúrufari sínu, leitar að eins sinnar eigin lukku og ánægju, til þessa miðar allt hvað hún fyrir sig tekur. Hennar guðrækni æfingar rísa þessvegna ekki af fríu vali, heldur af þvingun. Trúrækni er ekki hennar rétta fæðsla, heldur álítur hún hana sem einslags læknisdóm, sem hún neyðir sig til að brúka. En sá endurfæddi er þvert á móti kominn svo lángt, að hann hefur sína hvíld í Guði, svo sem þeim hærsta góða, og hann metur hans nálægð yfir øll ønnur hlunnindi fram. Af því hann fylliliga sannfærdur er um hégómaskap heimsins, snýr hann sér øldúngis frá hønum, og til síns Guðs. Aðal-innihald løgmálsins er þetta: "að elska Guð yfir alla hluta fram, og náúngann sem sjálfan sig"; en með endurfæðíngunni verður þessi himneski lærdómur hjartanu innplantaður, svo hann útbrýtur sínar verkanir, og hvetur hann

endurfæddba áfram, til ad ná fullkomleikanum, sem þó ekki fyrri, enn loksins á himnum algjørdur verdur. Karl sv.: Nú má eg viðurkénna, ad útmálan þín um endurfædínguna gédjast mér betur enn eg hugdi, og skal eg því á hana fallast; þó æski eg ennnú ad fá ad vita, hvørnig umbreyting þessi géti hjá manni til vegar komist? Henrik sv.: En eg held þér þá of- leingi uppi med því, þar þú vilt gánga á skodnnar- spila húsid. En lofadu mér samt ad spyrja þig ad því: hvørt ánægjusemdir eins skodunarspils mida, eptir þinni meiníngu, til þess, ad verka þvílikt sinnislag, sem eg ádur hefi þér fyrir sjónir sett? Eda munu þær ekki beint mida til þess, ad útrýma þeim verk- unum, sem þetta okkar mikilvæga umtalsefni ætti til vegar ad koma? Karl sv.: Med hreinskilni vil eg játa, ad víst hljóta þær ad gjøra þad; en þar eg hefi ásett mér ad ransaka i kyrdum okkar umtalsefni, þá vil eg heldur sviptast um sinn minni tilmidudu ánægju, og bid eg þig þessvegna ad halda áfram tali þínu. Henrik sv.: Gjarnan vil eg þad gjøra; eg er og full- víst um, ad þú ekki munt sjá eptir ad hafa tapad þínum kjæru sinnis sundurdreifíngum; því ef Gudi þókknast ad láta vidleitni mína, ad efla þitt sanna gagn, blessast, þá munum vid, bædi þú og eg, orsøk fá ad þakka honum, hvor med ødrum, fyrir þad eilíf- liga. Eg vil þarfyrir halda áfram tali minu. Endur- fædingunni er samteingd innvortis sannfæring um þad, hvørsu manneskjan syndug sé, og um þann stóra háska, sem henni þessvegna búinn er. Sé þessi um- breyting því, um hvørja eg talad hefi, naudsýnlig, þá flýtur þar af, ad hjá manni hlýtur ad finnast óró-

semi útaf hans fyrra sinnislagi og hegdun. Hjá þessari brósemi getur ekki farid, ef vér feingid hösum rétta þekkingu Guds og vorra skylduverka, fyrir hans augliti. Svo leingi sem skynsemin er formyrkvud, er manneskjan framandi frá lífi því, sem af Gudi kémur (Eph. 4, 18); en ef vér þvert á móti verdum, fyrir verkun heil. anda, upplýstir til ad þekkja hans sonnu veru og hans óendanligu dýrd, þá fyrst skiljum vér hvorsu skynsamligt þad sé, ad hann sjálfdt sé adalaugnamid alls þess, sem vér oss óskum. Þetta tillit til Guds setur oss þá í skjærasta ljósi fyrir sjónir, hvorsu vidurstyggilig ad syndin sé. Ef vér elskum Gud, þá sáum vér í oss einslags ama á sjálfum oss; því þad er einganveiginn nóg, ad syndarinn ottist ad eins straffid fyrir gudleysi sitt, hann hlýtur líka þekkja "syndina, sem yfirmáta synduga ad vera", (einsog Postulinn Páll ad ordi kémst, Rómv. 7, 13). Margir skélfast ad vísu af ótta fyrir straffinu, en þeir hafa samt einga réttiliga þekkingu um andstyggiligleika sjálfrar syndarinnar, og einga hjartanliga vidurkénningu heilagleika Guds og hans lögmáls, samt hans réttlætis, í tilliti syndarans fordæmingar. Nokkrir ad sonnu sinna til þess, hvorsu vesælt þeirra andliga ástand er, en ekki svo til þess, hvorsu sekir þeir eru fyrir Gudi; þeir eru ad vísu skélfdir, en þó ekki sann-audmýktir. Karl sv.: Heldur þú ad þessi reynsla sé ollum sakunaudsýnlig, eins þeim lastafullu og vanheilogu? Henrik sv.: Já, ollum án undantekningar, til þess ad "allra munnur verdi (sem Postulinn seigir, Rómv. 3, 19) tilbyrgdur, og oll verolldin fyrir Gudi sakfallin." —

Karl sv.: Eg óttast mjøg, ad inndrekka þessa dimmu hrædslu þánka; eda er ekki hætt vid þeir formyrkvi skynsemina, og steypi manni í ørvæntingu? Henrik sv.: Einganveiginn! Þeir þéna ad eins til, ad gjøra hjarta manns hæst til ad taka ámóti Evangelio; nefniliga ámóti þeim góda bodskap, sem tilkynnir þann stóra føgnud, sem bodadur er øllu fólki, því þad er þad, sem eg, nærst allareidu ádurségdu, vildi hafa sagt þér, ad útheimtist veruliga til þeirrar stóru sinnisbreytingar, sem hjá syndararum hlýtur ad finnast, ef hann skal endurfæddur verda, ad hann taki réttiliga móti því, sem hønum, fyrir Jesú pínu og dauda skuld, frambodid verdur. Ádur heldur enn madur er um syndarinnar vidurstygd sannfærdur ordinn, sýnist hønum Evangelíum vera rétt heimska; ad minnsta kosti gétur hann eingann sannann smekk í því fundid; og svo leingi fær hann ekki réttiliga móti því tekid. Hinir þar á móti, sem sundurknosad hjarta hafa, eru adeins þvílíkir, sem til þess ómetanliga dýrmætis fundid géta. Med hvílíkri sárri eptirlaungun, vid hverja þeir ekkért ádur hjá sér varir urdu, taka þeir nú ad leita eptir veigi lífsins; og hvad munu þeir nú ekki vilja til þess gésa, ad þeir géti byggt trú sína um þad, ad syndir sínar séu sér fyrirgéfnar, og ad þeir hafi frid vid Gud feingid, á vissari grundvelli enn ádur! Nú heyra þeir, af hjarta gladir, bodskap þann: "ad Gud hafi svo heiminn elskad, ad hann hafi sinn eingétinn son útgéfid, til þess ad allir, sem á hann trúa, eigi skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf." (Jóh. 3, 16.) Mun þar þá — seigir ein þvílík trúud manneskja vid sjálfa sig — mun þar þá sú von fyrir hendi: ad Gud

vilji mér miskunsamur vera; mér, hvør honum svo leingi gleymt hefi, og hann svo hræðiliga móðgað? Hefur hann þá reyndar elskað þá syndugа veröldu, og það á þvílíkann ógrípanligann hátt, að hann hafi sendt sinn son, til að frelsa hana frá eilífri fortøpun? O hvílíkur hátignarfullur gjafari! O hvørsu tilbeiðsluverdug gáfa! En hvørsu ómakligur, sá þyggja skal! Karl sv.: Þvílíkar trúrækniѕ tilfinníngar hljóta að vísu augnamiðinu að svara, jafnvel þó eg játa verði, að sjálfur eg sé frá þeim aldeilis framandi. En þar á móti held eg mikið uppá það, hvað mjøg á góðu siðferði ríði; og mér er sýn á að vita, hvør samteingíng sé á milli þinna háleitu imindana, og eins regluligs líkernis, sem eptir minni meiníngu hlýtur þó alltíð að vera aðalatriðið? Henrik sv.: Þegar hjartalag manns er endurnýað orðið, þá fylgir bygg-janliga á eptir, að lifnaðurinn umbreytist líka svo, svo að út af endurnýuðu hjarta geingur þá heilagleikinn, hvør eð innilykur í sér dygdugt líferni; en hann hefur þó alltíð eins mikla yfirburði yfir það, eins og góðrar saftin hefur yfir blómstrið. En hvað þetta efni snertir, voga eg að vitna þarum til orða sjálfs þín; því þú hefur allareiðu sagt, að minn lærdómur kynni fannleikanum samkvæmur að vera, en hann sé allt of strángur, til þess að hold og blóð géti hann afborið; þessvegna hefur þú ekki í efa leidt, að hann liti ogsvo til góðs siðferðis. Líka svo vogast eg til — jafnvel þó eg gjøri það með inniligustu auðmýkt — að setja hér til dæmis, mitt eigið líferni. Þú sier hvílíka verkun lærdómur þessi hefur hjá sjálfum mér haft, að hann hefur komið mér til að skilja

mig hreint frá öllum lastnæmum ánægjusemdum og léttúdarfullum samkvæmum. Þetta er sannleikur; og sá sem er af Gudi fæddur, hann finnur til þessa sannleika innvortis med sér, og ad hann verkar í sér þá sinnis umbreytingu, ad hann tekur ad byrja nýann lifnad. Því þessi nýi lærdómur — er þú svo kallar — hann áminnir oss til þess: "ad vér afneita skulum öllum ógudligleika og heimsligum girndum, en lifa hreinferdugliga, réttvisliga og gudliga í heimi þessum". (Tit. 2, 12.) Karl sv.: En segdú mér: hvörnig géta þínar ástædur sýndt svo kröptuga verkun, í líferni þínu og hegdun? Henrik sv.: þad skal eg seigja þér: Sá sem af Gudi fæddur er, finnur til sins nýa hugarfars af þeirri nýu upplýsingu og ímyndunum, sem hann feingid hefur um Gud og sjálfan sig; um þetta stundliga líf og eilífdina; um Jesúm Christ, og um þaug af hönum ákvördudu nádarmedöl, ordid og sakramentin. Viltú nú ekki heyra af mér nokkur fleiri ord, um hvört eitt af atridum þessum, út af fyrir sig? Karl sv.: Jú, med mikillri ánægju vil eg þad; já, enda þó eg, midt í því þú útmálar þá nýu sköpun, — ednr endurfædinguna — hljóti ad komast ad raun um, ad, svo framt þín útmálan sönn og rétt er, þá hefi eg sjálfur ádur villt farid. Henrik sv.: Þad er sá einasti vegur til ad finna sannleikann, ad vor villudómur verdi oss opinber; þessvegna máttú aldrei láta þér vid þetta hugfallast. Eg sagdi, ad sá sem endurfæddur væri, hann hefdi nýar ímyndanir um Gud; þad er, ad hann nú fyrst trúir veruliga og af hjarta hans tilveru, hans allstadar nálægd, hans almætti og hans forsjón. Ádur hugsadi hann sjaldan

til Guds, nú gétur valla nokkurt þad tilfelli edur hlutur fyrir hann komid, án þess hann þeinki til þess, hvørsu slikt géti sambodid Guds visdómi og vilja. Hvilikrar hátignar verdur hann nú ekki var, í øllum Guds eiginligleikum, einkanliga í gjædsku hans og elsku, sem hann í øllum tilfellum, vid sig framkomnum, var verdur, og hvørra hinna minstu hann álítur sig þó ómakligann verid hafa. Karl sv.: Þetta þykir mér furdanligt! Eg hefi aldrei álitid þad, ad þeinkja til Guds, svo sem eiginligt fagnadar tilefni, heldur miklu framar, sem uppvekja mætti ótta og kvída. En hvad um þad, haldtú áfram tali þínu! Henrik sv.: Í annann máta sagdi eg, ad sá umvendti syndari hafi ogsvo feingid nýtt álit og imindun um sjálfan sig; ádur fannst hønum, sem hann sjálfur væri sinn eiginn herra, en nú sjer hann og finnur, ad hann heyrir Gudi til. Hann finnur nú til sinnar skyldu vid hann, og sárgremst yfir, ad hann hafi hana svo hrædiliga yfirtrodid. Hann furdar sig stórum yfir því, ad Guds almætti skuli hafa haldid sér vid, midt í sinu gudlausa liferni, og ekki miklu heldur fallid yfir sig og asmád sig hastarliga, til þess ad sýna ødrum á sér eptirdæmi sinnar réttvísu vidurstygdar á liferni sinu. Karl sv.: Þetta er mér nokkurslags nýr lærdómur! Sannarliga hugsa því allflestir af vinum vorum svoleidis, um sjálfa sig, og vissullga er þad lika rétt nýliga, sem þú ert til þessarar sannfæringar kominn; og hvørsu hreint fráleit er veroldin því, ad þeinkja á þenna hátt! Henrik sv.: Því samsinni eg med þér, því einn endurfæddur madur hefur øldúngis nýar imindanir, og fráleitar því sem heimurinn og

heimsins børn hafa. Sá sem hann ádur trylldi, er nú burtufældur, og tálfarsinn er nú fyrir hans augum af heiminum og hans ánægjusemdum burtumádur; þessvegna hefur hann nú. — eins og eg ádur sagdi — feingid ogsvo nýtt álit á eilífdinni. Ádur hafdi heimsins hégómaskapur aldeilis til fánga tekid hans hjarta, svo hann mjøg sjaldan hugsadi til eilífdarinnar; en nú þvert á móti sveimar hún hønum æ og óaflátanliga fyrir augum. Ádur høndladi hann med þá ósýniligu hluti, eins og adra diktada fráføgu, nú vega þeir í þaunkum hans lángt meira enn allir veraldligir hlutir, svo þessir eru nú sísi léttari í metaskálum hans hjarta, hjá þeim sem til eilífdarinnar líta. Af þessu flýtur þá loksins, ad sá endurfæddi álítur Jesúm Christum í einu aldeilis nýu ljósi; ádur hafdi þánkinn um Christum einga yndæla fegurd í í hans sálar augum; nú er hann ordinn hønum sem útvalinn á medal margra þúsunda, mikid elsku- og yndis-ligur (Lofkv. 5, 10). Karl sv.: Því trúi eg, og sú mun því orsøkin, ad þeirra stada er af sumum heldst vitjad, hvar talad verdur mest um þvílíkt efni. Henrik sv.: já, vissuliga; þad er yndi eins sannumvendts manns — til hvørs eg hér eiginliga meina — ad heyra á slíkt tal, þar hann er — eins og ádur sagdi — tekinn til ad álíta þaug gudligu nádarmedøl í nýu ljósi. Ádur voru þaug hønum rétt byrdi og til leidinda, en nú eru þaug ordin hans fró og føgnudur. Dagur Drottins var hønum ádur til einkis andligs eptirlætis, heldur jafnvel uppfyllti hann med einslags ósæmiligri lángsemi, en nú er hann ordinn hønum heilagur í Gudi og háttmetinn af sálu hans.

Í fám orðum, hann finnur nú til fullkominnar umbreytíngar í sálu sinni, í þessu tilliti, og svo fer önnur hegðan hans þar eptir. Elska Guðs er úthellt í hans hjarta, og er orðin sem aðal-drifffjöður allra hans athafna. Öll önnur hans skylduverk framkvæmast því af hinum sömu orsökum. Þakklátsemin við Guð er nú orðinn honum sem aðanri náttúru; og þetta ekki að eins þakklátsemi við hann, sem einn gjæðskusullann velgjörara yfirhöfuð, fyrir hans óforþéntar velgjörðir, heldur sérílagi einslags tilfinníng skyldu sinnar við Frelsarann, sem þann endurfæðda elskað hefur, og "þvegið af hans syndum með sínu blóði" (Opb. 1, 5). Þesshátttar sinnislag innilykur í sér og verkar vissuliga ogsvo hreinskilna og brennandi elsku til náúngans. Líti hún til vondra manna, þá mun hin sanna elska til Guðs, sem áður fyllti hann ángri og viðbjóð í sjálfum sér, vegna sinna eigin synda, fylla hann með brennandi laungun eptir þeirra frelsi og sáluhjálp; en við góðar og guðligar manneskjur er hann með viðkvæmasta innbyrðis elskubandi, með hreinasta hjartalagi sameinaður. Karl sv.: Ef þetta er satt, sem þú seigir, þá er það víst, að trúarbrögð þín hljóta að vera miklu betri, enn eg áður ætlaði. Henrik sv.: Þetta er þó, minn kæri vin! að eins stutt yfirlit þess allramikilvægasta efnis, á hvörju sérhvörri einni manneskju ríður mest af öllu. Leifðu mér þessvegna enn nú einusinni að ítreka þennann hátíðliga sannleika fyrir þér, og gefi Guð, að hann, fyrir heilags anda krapt, verði hjarta þínu djúpt inn-

rættur! Þennanu sannleika, meina eg, sem Jesús sagdi: "ad nema nokkur verdi ad nýu fæddur, kunni hann ekki ad sjá Guds ríki." Héraf sjest, ad án þess þvílíkt innvortis ástand, þvílík fullkomin og yfirnáttúrlig sinnislags umbreyting framkomi hjá manni, kann hann ekki sáluhólpinn ad verda. Gud fer i þessu tilliti i allseingar mannvyrdingar: hvort sem madur er af háum edur lágum stigum, er ríkur edur fátækur, lærdur edur ólærdur, af þessum edur hinum Kristindóms flokki, þá svo framt hann ekki af heilögum anda endurnýast, er hann barn reidinnar; og deyi hann i því ástandi, þá hlýtur hann ad lenda í eilífum kvölum (Matth. 25, 46). Karl sv.: Eg efast eingan-veiginn um hreinskilni i þeirri vidleitni þinni, ad vilja sannfæra mig um þetta, en midt í því er þó lærdómur sá, sem þú brýnir fyrir mér, mér svo nýr, ad eg i hans tilliti gét ekki strax komist ad hreinum grundvelli; en mér sýnist hanu þó — þad vil eg fyrir þér vidurkénna — verdugur vera alvarligrar athugasemdar. Henrik sv.: Eg þakka þér fyrir þína hreinskilnu vidurkénningu, og eg vil ætíd reidubúinn vera, enn framar ad eiga tal vid þig um efni þetta. En leifdú mér adeins ad eiga þá bón til þín, ad þú inniliga viljir prófa sjálfan þig og ransaka eptir hönum, hvört þú reyndt hafir nokkud hjá sjálfum þér af þeirri stóru sinnisbreytingu, sem hann höndlar um? Hugsadú til þess kjæri! ad vid dagliga nálægjunst meir og meir gröfina, en hinumeiginn hennar verdur ástand vort ad eilífu fast ákvardad. Þad er sá allra dárligasti hlutur,

sem til er í heiminum, að vilja vera í óvissu um það, hvört vér eptir dauðann forum til himnaríkis eður helvítis, í samvist með einglunum, eður þeim vondskufullu djöflum, og það um alla eilífð. Þarfyrir gétur ekkert nauðsýnligra tilverið, enn sérhlífnislaus ransókn þíns nálæga ástands, innvortis og útvortis, fyrir Guðs augum; og að þú látir þér ekki nægja einúngis — eins og ofmargir — þá góðu von, sem þúsund marga hefur á tálar dreigið. Hafir þú orsök — eptir áðursögðum ástæðum — að halda það, að þú hafir sannann frið við Guð, hvílík ómetanlig fagnaðar uppspretta má það fyrir þig vera, og géfa þér sanna djörfúngu móti dauðanum og dóminum. En sé þetta ekki, þá máttú ekki einu augnabliki sleppa, til að snúa aptur frá bakka eilífrar glötunar. Karl sv.: Hvört ráð viltú þá leggja þeim manni, sem orsök hefur til að álíta sitt sálar ástand hættuligt? gétur þú géfið honum nokkrar ástæður um von sáluhjálparinnar? Henrik sv.: Guði séu þess þakkir, að það gét eg! Evangelíum er ríkt af hugstyrkingum fyrir hvörn þann mann, sem alvarliga leitast við að umvenda sér, og hefur í sér sanna iðrun fyrir syndir sínar, samt hreinskilið áform og vidleitni að betra sig. En í því tilliti ráðlegg eg þér þá fyrst og fremst af öllu, að þú takir fyrir þig að æfa sífeldt heimugliga sanna iðrunarfulla bænagjörð, að samfarandi hreinskilinni lifernisbetrun; því seigir Ritníngin: "Leitið Drottins meðan hann er að finna, kallið á hann meðan hann er nálægur! Sá guðlausi láti af sínum veigi,

og illvirkinn af sinni hugsun, og snúi sér til Drottins, þá mun Drottinn miskuna honum, og til vors Guds, því hjá honum er mikil fyrirgéfning!" (Es. 55, 6. 7.) Jesús Christur kann þá alla sáluhólpna ad gjøra, sem fyrir hann koma til Guds (Ebr. 7, 25). Flýdú þessvegna til hans í trúnni, og mun hann frelsa þig! þar er eingin synd svo stór og svört, ad blód Jesú Christi kunni hana ekki ad afmá og burtuhreinsa. Þar er ekki til neinn svo hardfjøtradur syndaþræll, ad Jesús kunni ekki ad leysa hann og frelsa. Lestú Bibliuna — einkum þad nýa Testament — en lestú hana med brennandi bæn yfir henni, og midt í lestrinum! Heimsæktú kostgjæfiliga stadi þá, hvar Jesús Christus er réttiliga prédikadur, og er þad víst um þad, ad tími sá mun koma, ad þú gétur med sounu sagt: "þad gamla er umlidid, sjá allt er nýtt ordid!" (2 Cor. 5, 12). Dýrd sé eilífum Gudi, sem er hofundur þeirrar nýu sképnu í Jesú Christo! Amen!

☞ Evangeliſk Smárit frá byrjun Nr. 69, eru ad fá í Reykjavík, í Flatey á Breidafirdi, á Eyafirdi og á Reidarfirdi géfins þeim, sem taka þar vid þeim sjálfir, en þeir sem þurfa ad senda þaug edur flytja, mekga taka 1 ß., undir 1 ark, hjá þeim, sem þeir færa þaug, ef vilja.

Kaupmannahöfn 1849. Prentad hjá S. L. Møller.